{Þess íslendska evangeliska}
{Smábóka-Félags rit No. 40.}

# 9da Hugleiding,

## út af því fimta atridi augsborgiska Trúarjátníngarinnar um Kyrkjunnar Embætti.

Svo ad vér (nú) þessa trú (sem strags var áminst) ödlast gétum, er tilsett embættid ad kénna evangelíum, og framreida sakramentin. Því fyrir ordid og sakramentin, svo sem nockurskonar verkfæri, verdur heil. Andi géfinn, hvör ed verkar trúna, hvarheldst og hvenær sem Gudi þóknast, í þeim, sem evangelíum heyra, nefnilíga (þá trú), ad Gud, ecki vegna vorrar for-þénustu, heldur fyrir Christs skuld, réttlæti þessa, sem trúa því, ad þeir fyrir Christs sakir, til nádar teknir verdi. (Vorir sofnudir) ógilda (því) Anabaptista og adra, sem meina menn fái heil. Anda, án þess útvortis (heyrda) ords, sok-

um þeirra sjálfra vidurbúnings og verka.

Svo sem flestir læknisdómar, er hreinsa skulu innvortis blód og saftir manneskjunnar, inntakast í einhverju hagkvæmu medali, svo þeir verdi bædi adgeingiligri þeim brúka skal og handhægri til notkunar; svo er um þann eina adallæknisdóm vid öllum vorum sálar-meinum, sem Gud hefir oss, sínum andligu sjúklíngum, Adams börnum géfid, sem fólginn er í hans sonar Jesú fridþægíngu og réttlæti. Þennan sama framreidir Gud mönnunum í, þar til af hönum sjálfum kjörnum, hentugustu færslu medölum, nefniliga hans heil. ordi og sakramentunum, sem þessvegna kallud eru nádar-medöl, þared Guds nád i Christo verdur í og med þeim framborin, bodin og meddeild, þeim sem hana þyggja vilja. Einkum er Guds-ord þad, í hvörju þessi himneski læknisdómur optast frambodinn verdur; og svo sem heil. ritníng er bók sú, í hvörri Guds ord i eiginligustu merkíngu fólgid er, og af hvörri allar adrar andligar bækur útdreignar eru, sem og svo kallast ad því leiti Guds ord, (jafnvel þær í rauninni séu bædi Guds og manna ord), má hún álítast sem nockurskonar guddómlig læknisdóma hyrdsla, í hvörri — og hvörgi annarstadar — fá er þann sanna læk-

nisdóm, vid meinum sálarinnar; hvar=fyrir hún má og á ad vera oss dýrmætari enn allir fjár= sjódir jardarinnar, og þessvegna kann sá, er hana á, álíta sig ríkari, enn þó hann ætti ógrynni gulls og silfurs; jafnvel þó eins sé varid um eign hennar sem annara andæfa, ad þau koma sínum eignarmanni svo framt ad notum, ad hann þau brúki og brúki réttiliga; því þess dýrmæta= ri og ómissanligri einn hlutur er, því meira er í húfi, sé hann ecki brúkadur; og þó hann brúkadur sé, ef þad skér ecki á réttan hátt, gétur misbrúkan hans ollad eins stórum skada, sem hans rétta brú= kan miklu gagni. Svo er því háttad um Guds= ord; svo óendanliga stórt gagn, sem þess rétta brúkan med sér færir, svo skélfiligt tjón gétur þess misbrúkan gjørdt; vidlíkt og besta læknismedal, óregluliga brúkad, gétur, á sinn hátt, ordid svo banvænt sem eitur. Nú þar heil. ritning, sem sagt er, geymir í sér þann einasta læknisdóm sálna vorra, þad er: hún er sú einasta regla og mælisnúra vorrar trúar og lifnadar, þá ríður oss á eingu meir, enn hún sé fulltrygg fyrir oss á ad reida; enda hefir Gud og svo fyrir því trúliga sorgad, þar hún er af anda hans inn= blásin þeim heil. skrifurum, hvad bædi postulinn Páll (2 Tim. 3, 6) og Petur (2. P. 1, 21) vitna; því þar Jesús hafdi sagt lærisveinum sínum (Matth. 10, 20), ad heil. andi skyldi tala í þeim, þad sem þeir þyrftu ad tala til útbreidslu evan=

gelli, er auðvitað, að hann hefir ei síður í þeim verið, nær skrifa skyldu enn tala; þar rit þeirra áttu að þéna mörgum ættkvíslum eptir þeirra dauða, til þess sama, sem tal þeirra einní, meðan lifðu. Þar sem nú ritníngin stèlud er með þeim orðum sem heil. andi kéunt hefir (1 Cor. 2, 13), þá er víst, að sérhvört orð hennar og talshættur — sé hann rétt útlagður — hefir í sér guddómliga vissu og gildi, til þess sem það miða skal; svo þeir sem seigja, að Biblían sé að nokkruleiti eður sumt í henni, af Guðs anda innblásið, en sumt ecki, er hætt við þar með leggi grundvöll til versta villudóms;. því hvör á þá um að dæma, hvað í henni af Guðs anda innblásið sé, eður ecki; út af því gétur risið allra skaðligasta þræta; því reyndar þyrfti sá, hvörjum óhult trúa mætti í því efni, géta sannað sögu sína, með jafnsórækum ástæðum, sem Postular drottins, er hennar lærdóm fyrstir kéndu. Þar sem nú ritníngin var géfin ecki að eins lærdóm heldur og leikum fyrir vegvísir til eylífs lífs, þá þurfti hún að vera — hvað hun og svo er — svo ljós og auðskilin fyrir alla, sem til þess a nægði; því jafnvel þó í henni finnist þúngskildir staðir í bland, (hvörra margir þó af þeim ljósari upplýsast kunna), hafa menn eingan skaða af þeirra myrkri, þar þeir þá út af fyrir sig ecki innihalda þá lærdóma, sem ómissanligir eru til sáluhjálpar. Því síður finnast í ritníngunni nockrar mótsagnir gégn heilbrigðri

skynsemi, en margt, sem yfir hana geingur; sem von er til, þar hún inniheldur þann stóra Gudhrædslunnar leyndardóm: ad Gud er opinberadur í holdinu, og svo marga, sem vid þennan teingdir eru! En allra sídst finnast í henni mótmæli gegn sjálfri sér, sem nockrir hennar audvyrdendur hafa heita látid, heldur eru lærdómar hennar svo dásamliga samanhángandi og grundvellinum sambodnir, ad þetta medframmi ber vitni um hennar gúddómliga uppruna.

En skuli nú lestur þessarar heil. bókar manni til sannarligs gagns verda, hlýtur hann, sem ádur er tilbendt, ad ské med því retta hjartalagi. Sannydrandi og trúad hjarta, sem úthellir sér yfir biblíunni i brennandi bæn til Guds, um upplýsingu hans anda, er ad eins þvílíkt, í hvørt ritníngarinnar guddómligi kraptur fær sér inn-þreyngt, en ecki annars; hér til dugir einginn mannligur lærdómur einskostar; en sú speki sem ad ofan kémur, hvørrar sonnu ein-kénnum postulinn Jacob (3, 17) lýsir, fæst ecki nema med trúadri bæn til Guds, eins og sami postuli kénnir (1, 6). Þessi himneska vitska er heil. anda verkan í sálunni, sem allt eins þeim ólærda sem lærda, þeim vesæla sem voldnga, hlotnast getur; og nær hún hefir hugskotid innntekid, kveikir hún þvílíkt ljós þar inni, sem upplýsir skilníngin á andliga vísu, og forbetrar hjartad;

því öll sú upplýsíng, hvörri sönn betran ecki fylgir, hún er jarðnesk, en ecki himnesk, og þvílíkum, sem hana adeins hafa, gétur heil. ritníng ecki ordid kraptur Guds til sáluhjálpar.

O hvad sæla meigum vér þá telja oss, framar enn forfedur vora, þá sem á páfadómsins tímum lifdu, ad þessi allradýrmætasta Guds nádar byrdsla, heil. ritníng, stendur oss nú, öllum jafnt, opin og til reidu, sem ádur var, eins og hulinn fjársjódur á akri, sem varla nockur gat fundid edur feingid. En nú eru margar christnar þjódir komnar á þá trú, ad vidurkvæmiligt sé, ad hvör og einn christinn eigi þessa blessudu bók, svo sem fasteign sálar sinnar; og þar ad auki sé þad christinna skylda, ad útbreida hana og svo medal þeirra þjóda — svo sem Gydínga, Tyrkja og heidíngja — sem hana ei ádur haft hafa, svo þeir, ef audid væri, gætu eins vel, sem hinir christnu sjálfir, ordid hluttakandi þessa himneska fjársjódar, sem reyndar á ad þéna öllu mannkyni jafnt til velferdar; þar þetta bodord Christs: Farid úf um allan heim og kénnid öllum þjódum, álítst ad skuldbindi þá christnu, enn nú á þessum dögum, eins, á sinn hátt, sem sjálfa Jesú postula; med því Kirkjunnar alþýdliga bodord er þar vidteingt, sem einginn efast um, ad alla christna, á öllum öldum, jafnt skuldbindi, og hvar fyrir þá ecki og svo allt eins hid fyrra? Orsökin er: raung sjálfs-

elska, hefir fundid þad kostnadar- og ómaks-meira enn skírnina, og upphafid þarfyrir þess skuldbindanda gildi, eptir eiginn myndugleika, sér í vil. Gjæfi Gud, ad vér þeirra eptirkomendur gjørdum nú því meiri gángsker ad þessu àllramikilvægasta fyrirtæki, sem þad ádur hefir framar forsómad verid!

En til þess nú ad framhalda byrjadri samlíkíngu, þá, svo sem þad hefir naudsýn þókt, ecki ad eins ad stofna ríkulig læknisdóma-søfn, í hvørjum gnægd væri til af gagnligum medølum, gégn sér-hvørjum vomeinum mannligs líkama, heldur og svo ad tilsetja vissa menn, er bædi skyldu upphvetja fólk ad leita sér lækníngá í tíma, og sýna því hvad vidlægi ef vanrækt væri, samt þar ad auki kénna því, ad brúka réttiliga þá fyrir hendi verandi læknisdóma, og halda þá réttu lifnadar-ordu, til ad fordast nýa sjúkdóma, allt eins hefir því háttad verid í tilliti andligra efna. Frá upphafi hefir hin stærsta naudsýn þókt ad tilskipa vissa menn sem andliga læknira; fyrst til þess ad áminna fólkid ad gjæta sinnar innra manns heilsu, og þeckja hvørsu þad af náttúrunni undirokad sé banvænni erfdasýki, sem vissuliga ordid géti því ad eylífum bana, nema í tíma sé rád tekid, og sá læknisdómur, sem Gud í ritníngunni géfid hefir, régluliga brúkadur, samt fyrirsettur lifnadar-máti æfdur.

Og er þessa því heldur þørf í andligum efnum, sem sálarsýki þeirri, er á mannkyninu liggur, fylgir optast dofi og tilfinníngarleysi, svo hinn sjúki vill sjaldnast trúa, ad hann sé í því fári staddur, sem hann reyndar er; einkum þar brúkun hins andliga læknisdóms fylgir opt fyrst í stad meiri sársauki og tilkénníng, enn sjúkdóminum sjálfum, og þar á ofan þykir sú fyrirsetta lifnadar-orda strang vera, en sjálft medalid bálitligt og holdligri náttúru ógédfeldt. Þessir menn, er eg hér nefni andliga læknira, eru þá þeir, sem kénnidómsstéttin samanstendur af; og er þeirra embætti þeim mun mikilvægara fyrir mannkynid, enn líkamligra læknira, sem sálin er ypparligri líkamanum, himnaríki heiminum, og eylífdin tímanum. Hér meigum vér makliga, med postulanum páli (2 Cor. 2, 18) spyria: hver er til þessa hæfur? því sagdi og svo Jesus (Luc. 12, 42) hvad mikils er verdt um trúan og forsjálan hús-stiórnarmann, sem géfi Guds hjúum í réttan tíma, þad sem þeim hentar? Ad vísu seigir Páll postuli: ad ecki heimt-ist meira af verkstjórnurunum, enn ad þeir trúir finnist (1 Cor. 4, 2); en þetta ord: trúr, innibindur og líka í sér þvílíka skyldna þyngd, ad tvísýndt mætti þykja, hvort nokkur borid gjæti. Ef einn læknir sem þéna á mörgum sjúklingum undir eins á einu hospitali,

má hafa sig allan við, ad gjæta ad ástandi þeirra, hvørja breytingu sýkin tekur hjá hvørjum einum, hvílík tilfelli med henni votti sig, hvørja verkun meddeild læknismedøl gjøra, hvørsu trúliga þeir sjúku brúki þau og fylgi þeim fyrirskrifadri lifnadar-ordu, og fleiru slíku; hve stærri adgjætslu þyrfti þá ecki, ef vel skal fara, hinn andligi læknir ad hafa á þeim sjúklingum, sem honum eru á hendur falnir, þar sjúkdómur þeirra er svo margbrotinn, útlitid svo vandþeckt, medølin svo misbrúkud, og lifnadar-mátinn svo hrædiliga yfirtrodinn, ýmist leyndt edur ljóst; og þad sem verst er, ad þeir sjúku láta opt miklu betur af ástandi sínu enn skyldi, og vilja telja lækuirnum trú um bata sinn, svo þeir frelsist frá hans umvøndun og reglusemi.

En nú kémur til þad stóra spursmál: hvør mun þá þvílíks andligs læknirs- edur kénnimans-skylda? til hvørs er hann skuldbundinn eptir sínu embætti? þar til veit eg ecki greiniligar ad svara, enn med því ad setja fyrir sjónir innihald eids þess, sem hvør einn kénnimadur hlýtur vid inngaungu síns embættis, eptir løgunum, og á ritningunni bygdan, ad vinna. En eidsins innihald er þetta sem fylgir:

1) ad hann viti sig réttiliga til embættisins kalladan og kominn. 2) ad hann lofar ad kénna Guds ord, eptir sem þad inniheldst í heil. ritningu og þeim symbolisku- edur einkunnar-bókum vorrar

kyrkju, med allri ástundun, trúliga; handtéra sakramentin regluliga; uppfræda ungdóminn med yfirheyrslum kostgjæfiliga; æfa kyrkjunnar aga byggiliga, og halda vid uppábodna kyrkjusidi og og cerimonkur tilhlýdiliga. 3) ad hann ecki einasta alvarliga flýi og fordist sjálfur allan villulærdóm, heldur og standi á móti honum eptir megni, og láti fyr lifid, enn hann sam sinni nockrum folskum lærdóms setningum. 4) ad hann lesi og ydki heilaga ritníngu, og adrar andligar bækur med mestu ástundun, og láti eingan dag hjálída, á hverjum hann ei lesi nokkud andligt, nema ómflýanlig forfoll banni. 5) ad hann ydki, þad liferni, sem stiett hans og embætti vel sómir, og sem tilheyrendum hans er sem best til eptirdæmis og uppbyggíngar og 6) loksins, ad hann audsýni alla leyfiliga hlýdni sínum yfirbodurum, og umgángist svo sína embættis-brædur, ad einginn hafi réttvísa orsok yfir honum ad klaga.

Hvilíkan eid hofum vér prestar allirsaman unnid, nær embættid uppá oss tókum, og hvilík skylda liggur þá á oss ad vardveita hann, svo vér ei verdum meinsæris-menn fyrir Guds augliti; og þó hann aldrei unnid hefdum, ef vér samt værum í embættid komnir, lægi oll hin sama skylda á oss, eptir embættisins og christindómsins náttúru. Gjæsi Gud þad væri oss ollum ógleymanligt; þá mundi vísi ecki stand vort verda svo forsmád, né embættid svo ávaxtarlítid, sem

raun gefur opt vitni um. En látum oss þá lítið eitt yfirvega, hvað af presti hverjum heimtast, til að varðveita eið sinn.

Fyrst á hann að vera viss um, að hann réttiliga til embættisins kominn sé; fyrst í tilliti síns eiginn þánkamáta, að hann af sannri girnd til að uppbyggja Christs söfnuð hafi um það sókt, en ei svo til þess að lifa af þess launum, sem opt sýnist þó oflítið aðgjætt við embættisins inngaungu, og þó enn síður við þá opt hneigsanligu eptirsókn betri og ábatasamari prestakalla. Þar næst að hann á allan lögligan hátt, fyrir utan mútur og fylgi, í tilliti æðri sem lægri, hafi brauðinu náð; ella drýgir hann líka synd sem Símon töframaður, er fyrir peninga vildi kaupa af postulum drottins kraptaverka gáfu (Gb. 8, 19—23). Í þriðja lagi skal hann vita sig hafa þann rétta hæfiligleika til prestsligs embættis, bæði í tilliti hinna náttúrligu gáfna, að hann hafi nógan lærdóm, talsgáfu og líkams krapta þar til; og þó einkum í tilliti hinna embættisligu, að hann nefniliga í trúarbragða fræðinni hafi einum presti verðuga upplýsíngu, svo hann bæði sé fær um að útlista þang greiniliga og verja móti villulærdómum, samt þá gédlags-art, er útheimtist til þessa embættis luckuligu driftar, samantempraða jöfnum skérf hreinlyndis og mannelsku. Loksins skal hann hafa þær helgandi náðargáfur, (á hverjum og allramest ríður), nefniliga: að

hann sjálfur fullur sé af sönnum Guds ótta og elsku til Christs og hans safnadar; því hvörsu má sá fadir uppala gudhrædd börn, sem sjálfur ógudhræddur er?

Þad annad sem embættiseidurinn krefur, er, ad presturinn, nær hann er til embættisins kominn, kénni Guds ord bædi kostgjæfiliga og réttiliga. Fyrst kostgjæfiliga; svo hann einganveginn láti sér nægja, ad predika ordid opinberliga á helgum dögum i kyrkjunni, heldur kénni hann þad jafnframmi heimugliga, svo opt færi þar til géfst, og hugsi til postulans páls alvarligu áminningar (2 Tim. 4, 21), og hans merkiliga dæmis (Gb. 20, 18—21). Því næst hlýtur kénning hans aldeilis samhljóda ad vera formi því, er hann svarid hefir ad laga hana eptir; og — hvört er þad? svar: heilög ritning og kyrkjunnar symbolisku bækur, sém eru einkanliga hjá oss: sú augsborgiska trúarjátning og Lúthers litlu barna frædi; (sjá NL. 2—1).

Ecki er þad þó svo ad skilja, sem þessar stragsnefndu bækur, sén eiginliga höfudregla trúarinnar, á sama hátt, sem sjálf ritningin, heldur svoleidis: ad svo sem heil. ritning er sú einasta regla og mælisnúra vorrar trúar og lifnadar, svo eru nefndar bækur lögbodid form, eptir hvörju hennar lærdómar útþýdast og heimfærast eiga, i prestanna svo heimuglign sem opinberu kénningum. Hvörsvegna sá sem i hjarta sinu ecki er ad öllu

telti sampyckur þvk lærdóms formi, sem þessar bækur útdraga af heil. ritníngu, hann kann öldúngis ecki, með óskaddaðri samvitsku, að gánga inní það evangeliska prestsembætti í vorri kyrkju, hvar það lögleidt er, að kénna fólkinu, eptir symbolisku bókanna vegleidslu; og það allteins, þó hann ecki aflegdi slíkan eid, sem prestunum sifladur er; (þó skuldbindíngin verdi enn nú ítarligri, eptir eidsins afleggíngu); því gjöri hann sér adra meiníngu um ritníngarinnar lærdóma og þeirra réttu útleggíngu, enn þá sem ádurnefndar bækur framsetja, hlýtur hann bædi ad sverja og kénna móti sannfæríngu sinni, ef hann vill eidinn halda; en kénni hann ecki svo, er hann strags lagabrots- og meinsæris-madur, sem hvörutveggja er jafnóverdugt ærliga þeinkjandi heidíngja, auk heldur þeim sem lætur sig christinn kalla, og þar á ofan prest, edur christinn í háleitari tröppu. Sama er að seigja um þá, sem eptir það þeir eru í embættid innkomnir, fá adra þánka um trúarbragdanna réttasta skilníng; hvörigur þessara gétur med gódri samvitsku — ef hana nokkra hafa — þénad í prestligu embætti vor ó medal, og þessvegna hlýtur sá fyrri, að halda sér frá ad inngánga það, og vera sínum medmannesskjum til uppbyggíngar í einhvörju ödru standi, en sá sídari hlýtur ad niðurleggja það, ef þeir adeins vilja ærliga breyta, þó máské villtir séu. Og sýnir því eckert framar óhreinlyndi þesshattar

manna, enn ad þeir fá af sér, hvortheldur ad inngánga edur halda vid þad embætti, hvörs skyldur ad uppfylla strídir á móti þeirra svo kölludu sannfæríngu, hvorja þessvegna er því stærri orsök falska ad halda, sem audsjáanligra er ad samvitska þeirra er dofin og rángsnúin.

En hvörnig skal þá einn sann-evangeliskur Prestur sínar kenníngar laga? Svar í einn ordi: hann skal predika Gudsson Jesúm Christ þann kross-festa! (sjá 1 Cor. 1, 23. 2, 2. 2 Cor. 1, 19, 4, 5.) En þad heitir ad predika hann, ad madur kénni: „ad hvör sú manneskja, er finna vill nád hjá Gudi, sínum skapara, hljóti ad leita hennar med fullri trú á fridþægíngu Jesú og fyrirbón; en skuli sú trú rétt og gild dæmst géta, hljóti hún ad sanna gildi sitt med hreinni elsku til Guds og náúngans, hvör elska þá hljóti endiliga ad sýna sig med trúrri vidleitni ad hlýda Guds bodordum, leynt sem ljóst, med því ad fordast þad vonda, en gjöra þad góda, til hugrenninga, orda og verka, og þad allt til daudans." Ad þetta sé nú þad sanna innihald Evangelii, vita allir, sem sinn barnalærdóm numid hafa, einkum ef þeir, med nockurri gaumgjæfni, hafa Jesú nýja testa-

ment lesid. Þar fyrir eins og Prestur só, sem ad eins kéndi allt um trúna, en áhrærdi lítid lífnadinn, færi alls ecki rétt ad rádi sínu, svo allt eins hinn, og eingu betur, sem léti allar sínar kénníngar handla ad eins um dygda- og sidalærdóm, en mintist varla neitt á trúna á Jesú fridþægíngu; bádir breyttu herliga þvert á móti skyldu, eidi og Jampvitsku. Sá fyrri væri líkur læknir þeim, sem ad vísu rádlegdi sjúklíngi sínum mikid gott medal, vid sýki hans, en kéndi honum þó lítt, hvornig hann ætti þad ad brúka, en allra síst fyrirsetti hönum neina vissa lífnadar-ordu, til ad varast sjúkdómsins yfirfall frampveigis; og svo leidis kynni þad besta medal verda honum yfrid skadligt.

Hinn þvert á móti, sem sidalærdóm einúngis kénnir, er líkur þeim lækni, sem kémur til dauds sjúks manns, hvarsum efalaust bani búinn er, nema hann í tíma ödlist kroptugt læknismedal; en læknirinn gjörir þó eckert annad, enn lesa fyrir honum reglur þær, sem létt- edur ó-sjúkur madur skyldi teptir breyta, til ad fordast nýar vanheilsu orsakir. Hvad vildi þeim sjúka svoddan lestur gagna? Þyrfti ecki læknirinn fyrst med dugligu hellsubótar medali gjöra hann hæfan til ad géta fylgt reglum sínum; á medan kjæmi þær hönum ad eingu haldi, og honum væri eins, sem ella, brádur bani búinn. Veit og vel ad sida-lærendur seigja, ad gódur sidalærdómur læknir

sálina, undir eins og hann betri þánkamátann; en það er ecki satt, þegar syndasýkin er, eptir Biblíunnar kénníngu, álitin þvílík ein, er deydt hafi sálu manns á andliga vísu, og firrt hana öllum kraptum til sannra góðverka; því að svo sé ástadt fyrir manninum, medan hann er í synd inni daudur, sýnir ritníngin berliga. Allar manneskjur eru eptir Guðs lögmáli til eylífs dauða úrskurðadar, og eru, medan ómumvendtar lifa, sem í fángélsi einu, úr hvörju þær vita ecki nær, enn þá og þá útdreignar verdi, til ad líða straff eylífs dauda. Nú géta þær ecki úr þessu fángelsi, né frá þessum daudadómi frelsast, nema þær fyrst taki á móti því fram-bodna lausnargjaldi Guðs sonar med trúnni, fyrir hvört þær bædi læknast géta af syndasýki sinni og keypt sér til handa frelsi, líf og landsvist hjá Gudi. En sái nú þessir Guðs fángar aldrei svo um lausnargjaldid ad heyra, ad þeir uppvekist móti því réttiliga ad taka, þó sífeldliga séu fyrir þeim brýndar skyldur eins borgara, sem er frí og friáls, edur frá sek sinni leystur, hvört gagn hafa þessir vesælíngar af því, og enda þó þeir í fángelsinu taki ad gjöra nockud af því, sem þeim skipad er. Hvörsu mjög dragast þeir á látar, ef þeir fyrir það einskostar, meina sig frá dauda-sek sinni frelsast? Svoleidis vyrdist mér nú ástadt fyrir þeim, sem vid sidalærdóms kénníngar einar betrast

nockud, (því, ad það ské kunni, er ecki ad neita), en annadhvert fyrir sína eigin vanrækt, edur kénslumáta Presta sinna, taka aldrei reglulíga, med sáluhjálplígri trú, á móti Jesú lausnargjaldi, en treysta ad eins á sína ytrid ófullkomnu útvortis betrun. Egselgi: útvortis betrun; því sú innvortis, (sem endurfædíng nefnist í ritníngunni), áorkast ecki til hlýtar vid neinn lærdóm, nema Evangelíum eitt, (nær þó Jesú fridþægíngar lærdómur er med sönnu traustí, elskn og þacklæti umfadmadur); því úngbarna skirnin kémur hér ecki til tals. Hvar fyrir ad nær þenn-ann evangeliska anda vantar í kénnínguna, er ómøguligt hún nái þeßu háleita augnamidi. Má því kénníng slík álítast sem sálarlaus vel-prýddur líkami, hvør ad vísu er opt snotur og fagur á-sýndum, en lífid vantar þó í hann, eins og í leir-blæti Adams, ádur enn Gud blies lífs anda í hans nasir. En svo hefir óvinnr sálnanna gétad, á undanførnum øldum, tøfrad hjørtu mjøg margra, í Guds sýnilígu kyrkju, ad þeir hafa tilbedid blæti þetta, eins og Israel fordum gull-kálfinn; og svo sem, í þær mundir, var úthróp-ad: þetta eru þínir Gudir, sem út-leiddu þig af Egyptalandi! svo hefir og vantrúarinnar herlíd hrópad um þennan sinn afgud: ad hans ímind væri hinn sanni og einasti guddómligi lærdómur til farsældar. Já, svo hef-ir ramt adqvedid, ad margir þeirra veraldliga

lærdu hafa álitid lærdóminn um krossinn fyrir heimsku (Cor. 1, 18), og þessvegna forsmád hann, og þá sem hann í einfeldni predikad hafa. En nú er hann tekinn aptur ad nýu, ad hefja nockud höfudid úr duptinu; og Gud mun sannliga, med tímanum, reisa upp Jesú kross sígnr=merki, og leggja óvini hans til skarar hans fóta.

Um ádursagdan predikunarmáta hefir hinn sæli kyrkju=lærifadir Lúthers sagt sína skorinordu meiníngu á þennan hátt: „Evangelíum er einúngis þad, sem um blód Christs" (þad er um hans fridþægjandi pínu og dauda) „predikad verdur; þeir sem nú vilja bestu kénnendur heita, og þegar þeir best gjöra, tala þeir um sidferdi manna og lifnad, þjáníngar og dauda. En slíkt er eingin christilig prediknn; þar fyrir skal madur allar þær kénníngar, sem ecki um Christ höndla, fótum troda" (Tom. 2 Jen. fol. 296), og er þetta talad rétt i sama tón, sem Páll postuli brúkar (Gal. 1, 8): þó ad vér, seigir hann, edur eingill af himni predikadi ydur evangelíum ödruvísi enn vér höfum predikad, veri sá bölvadur! og tvítekur þessa bannlýsíngu. Nú er heiminum kunnugt, hvörnig Páll evangelíum predikadi.

Af þessu er þá audsjed, hve stór skylda liggi á vorum Prestum, ad kénna ei ödruvísi, enn kyrkjunnar symbolisku bækur géfa ástædu til; enda er

því betur, að flestir, það eg veit, meðal vor eru þess sinnis; og hefum vér stærstu orsök, að þakka Gudi af hjarta fyrir það; ecki einasta sökum þess, að það er sú vissasta, uppbyggiligasta og óhultasta útleggíng ritníngarinnar lærdóma, sem þær fyrirsetja, (eins og áður syndt er), heldur og vegna þess, að sá Prestur væri í mesta máta tortryggjandi, hvörsu álitlig sem hans aðferð sýndist vera, sem, þvert á móti eiðsins og samvitskunnar heil. skuldbindíngu, feingi af sér að kénna, ódruvísi, og maður neyddist til — hvað þúngt sem honum félli það — að álíta hann sem úlf í sauðaklæðum, fyrir hvörjum Jesús býður mönnum alvarliga að vara sig. O að slíkir falskir bræður finnust aldrei, né hvörgi vor á meðal. Þessvari ofk viljum vér — í tilliti þess áður umtalaða — snúa í bæn til lifanda Guðs, seigandi:

O þú eylífa heilaga vera, þú faðir, sonur og andi, þú einn og sanni Guð, efldú Christins þína hér í heimi, svo Guðs sonar ríki meigi æ framar og framar aukast og blómgast meðal vor Adams barna, og allar þær blessanir sem því fylgja! Láttú þitt lífsins orð, þá heil. ritníngu — volduglega útbreiðast um heiminn, og hennar himneska ljós upplýsa þær forblindndu þjóðir, sem nú sitja í dauðans skugga = dal, og þeckja ecki þann retta lífsins veg! Styrktú þá drottinn, og blessa, sem þetta dýrdligasta verk á hendi hafa,

hvad margar og megnar hiudrânir sem móti: ok-sa! Æ, seudtú trúlynda hyrdara hjördu þinni med-al christinna, sem bædi kénni vel og lifi vel! Hindradú villulærdóma útbreidslu, og umvendtu öllum þeim sem af þeim knetjadir eru; hvert sem þeir eru í kénnenda edur tilheyrenda tölu 2. Gef ad Prestanna hjörtu séu svo vidqvæm, sem þeirra embættis eidur er heilagur, þeim tiltrúadar sálir dýrmætar, og sá reikníngur, sem þeir standa eiga, mikilvægur! Lát hvörki skada né ábata, forsmán né heidur, makindi né mædu freista þeirra til ad tala edur gjöra nokkud móti sinni samvitsku og sannleikanum, svo sannleikurinn frelsi þá, og alla sem þeim á hendur falnir eru; já helga þá í þínum sannleika, þín ord eru sannleikur! Bæn-heyr þad þú sannleikans eylífi Gud og Kóngur, af þinni nád i Christo! Amen.

---

# 10da Hugleidíng,

## sem Framhald yfir sama efni.

Í nærst undanfarinni Hugleidíngu yfirvegud-um vér kyrkju-kénaranna skyldu ad vardveita lær-dómsins hreinleika, sérílagi í tilliti þeirra opinberu kénnínga, og ad þeir ecki mættu — undir mein-særis sök — neinu umbreyta af því lærdóms formi, sem hinar svonefndu symbolisku bækur, í sér geyma

er fylgja í flestu þeim bókstafliga og yfirskynsamliga útleggíngar máta ritníngarinnar. Nú þó svo ærid mikid á þeszu ridi — svo sem undirstødn verdugrar embættis færsin — ridur samt á sinn hátt jafnmikid á hinum ødrum — skyldum Prestanna, sem eidstafur þeirra tiltekur; til dæmis: á regluligri handtierun sacramentanna, sem ad vísu stdur er hætt vid ad útvortis aflaga færist, enn lærdómurinn, af því hún er vid føst útvortis form bundin; en nytsemi þeirra fer þó mikid eptir lærdómsins hreinleika. Í augum þeirra, sem ecki trúa Christs fridþægíngu, verda þaug ei ødruvísi, enn sem eintóm kyrkju-cerimonia, og fer þá virdíngin fyrir þeim eptir því, eptir virdíngunni brúkunin, eptir brúkuninni nytsemin. Ad undanteknu því, sem skírnin kann ei ødruvísi enn úngbørnin ad frelsa, þar þaug géta nádinni ecki móti stadid.

Sama er um catechisationer, edur uppfrædíngu þess yngra fólks med spurníngum og andsvørum, ad seigja; ad hún er yfrid stór skylda Prestanna, hvør eingu frámar má undir høfud leggjast enn predikanir; því stdur sem æfing þessi upplýsir skilníngin enn betur enn þær, jafnvel þó þær kunni ad hræra meira. En hve lítid sé í þá hræríngu varid, sem einúngis nemur stadar í gédinu um sinn-sakir, en hvørki uppfyllir skilníngin med ljósi, né viljan med lífi, sannar ofopt sorglig reynsla; þegar sumir

þeirra er sýnst hafa hrærst inn til tára undir einni ræðu, gánga stundum strax burtu, til að drýgja hlæandi sýnd þá, er þeir áður meintust gráta fyrir. O hvörsu táldragandi er manneskjunnar hjarta! En það ríður þó ecki minna á, hvörsu catechisationer eru af hendi leystar, enn predikanir, því heldur, sem þær, framar hinum, í minni festast. Þeim verður að fylgja bædi ljós, líf og kraptur; ljós til að birta skilnínginn, og kraptur til að betra hjartað. Það er og þeim Presti ecki torveldt, sem sjálfur af trúarbragðanna himneska anda gagntekinn er; því það sem talast af hjarta, nemur opt betur stadar í hjarta, enn ella. En sé Prestur holdliga sinnaður og með leigulíða skapi, fellur honum æfíng þessi örðugri og einkum leiðinligri enn predikanir, því þær gétur hann lesið af blöðunum, ef hann vill, en catechisationina verður hann að taka, að miklu leiti úr brjóstinu, eigi hún að bera nafn með rentu.

En framar hvað kyrkju-gáng snertir, þá má um hann seigja, að varla orðið sé eptir af honum nafnið, því síður meira, vor á meðal, sem er, bersýniligt, en þó hörmuligt, merki kaldlyndis í Christis-kyrkju sókum; því agans líf hángir af lífi guðligs vandlætis, sem kvistur af eik. Vor góðu kyrkjulög þessu adlútandi eru þó ecki upphafin, allrasíst heil. ritníngar skýlaus boðorð og eptirdæmi í því efni. Menn vita og

hve óſeiganliga mikid ridur á þvilíkum aga, ſkuli nockur regluſemi í chriſtiligri kyrkju vidhaldaſt, og hún ecki verda lík einu ræningjabæli. Nú er angnamid kyrkju-agans einkum þréfaldt: a) fyrſt hindrandi, ad þad vonda, hverju Páll (1 Cor. 5, 6) líkir vid ſúrdeig, ecki ſkuli ödrum ſafnadarins limum ad hneigſli verda, þegar þeir ſjá ad berſýnilig brádvendni, lagayfirtrodſla og óguðrækni, er ecki vitt né adfundid, ſvo þeir þeſs-vegna leidiſt til ſömu ódáda; vidlíkt eins og ef illa artad ſár á líkama manns er látid óumhyrdt, kann þad ad ſetja heila líkamann í lífshættu. b) Þarnæſt er kyrkju-agans augnamid forſvarandi, edur til þeſs ad kyrkjunnar forſtödumönnum ſé ecki, ſokum þeirra hlýdrunar og afſkiptaleyſis, illir ſidir ad kénna; hvar med þeir, eins og Elí, gjöri ſig hluttakandi í annarligum ſyndum, ſem bædi þad gamla og nýa teſtament tekur vara fyrir. (3 Moſ. 19, 17. 1 Tim. 5, 22). c) í þridjalagi á kyrkju-aginn ad vera leidréttandi, til þeſs ſjálfur ſá agadi meigi, ef audid er, lagfæraſt og komaſt aptur á réttan veg. Þeir eldri kyrkjunnar lærifedur kölludu þann ſtrángari kyrkju-aga bindandi lykil, í tilliti orda Chriſtis hjá Matth. 16, 19; nefniliga þegar opinber og þrálátur ſyndari var útiluktur frá kyrkjunnar ſamneyti í kvöldmáltíd drottins; ſem ad víſu naudſynligt er, þegar ſvo ramt ad kvedur; þó álít eg í ſídaſta lagi til þeſs takandi, (þar Chriſti-

ur sjálfur ecki útilukti Júdas Jskariot, hvörs vonda hjartalag og áform hann þó gjör þeckti, frá samnautu þeirrar fyrstu kvøldmáltídar); en alvarligar áminnúngar heimugligá sem opinberliga, (eptir því sem ástaudi þessa vonda háttad er), má einn Guds þénari ecki spara, ef hann ætlar ei ad draga yfir sig þann hrædiliga Guds dóm, sem ritadur steudur hjá Ezech (3, 18); og aldrei leyfa sér þó smindun, ad þad sé nóg, ef hann í sínum opinberu rædum af predikunar stólnum varar vid klækjunum, þó hann gjöri þad slakliga þar fyrir utan. Fjærri því! Hann er skyldugur eingu sídur ad kénna utan kyrkju enn innan; og þar á ofan hefir sú fyrri adferd optar meiri verkun enn sú sídari, þar þessi er vanaligri, og gétur sídur lagast eptir einstakra persóna ástaudi enn hin, hvörja þeir heimfæra opt minst uppá sig, sem mest vid þurfa. En sjálfsagt er, ad med þessu eykur Presturinn sér mikla mædu, og opt óvild þeirra, vid hvörja hann umvandar; en hann má alls ecki þar um skeita, vilji hann Gudi sínum trúr finnast. „Gud vardveiti oss, seigir Lutherus, frá þeim Prestum, sem allir (fyrir mildi, hógværd og fridsemi, þaug í heiminum skelfiliga misbrúkudu nøfn) géfa gott lof.“ Og Páll (Gal. 1, 10) seigir: ef eg vildi mønnum þóknast, væri eg ecki Christs þénari; og Jacob (4, 4) seigir

skorliuordt: ad sá sem vilji heimsins vinur vera, verdi Guds fjandmadur.

Hér ad auki stendur i Presta eidnúm: ad Prestur skuli halda vid þær í kyrkjunni lögbodnu ceremoníur fastliga. Já, þad er sannliga naudsýnligt; því þó ecki séu allar þessar ceremoníur jafnnaudsýnligar, og menn kynnu óska nockurrar umbreytingar á sumum, skyldi einginn Prestur, af eiginn myndugleika (án sjálfs lög gjafarans samþyckis) leyfa sér nockurri þeirra ad umbreyta, þar hann med því freistar annara, ad yfirtroda lögin eptir sjálfsþókta, nær þeim so rædur vid ad horfa; en hve hrædilig óregla og skadi fyrir stjórnar-standid sem kyrkjuna gétur af því flotid? Nei, einginn skyldi reglufastari vera vid laganna bókstaf sem anda, enn Prestarnir, af hvörjum fólkid læra á, svo vel hlýdnina vid landslögin, sem vid Guds eigid ord!

Þad þridja höfud atridi í eidstaf Prestanna er, ad þeir skuldbindast, ecki einúngis til ad fordast, hefdur og móti-strida — og þad allt til blódsins — öllum villulærdómum; þad er: þvílíkum, sem ei samhljóda heil. ritníngu, eptir symboliskn bókanna útleggíngu. Ef þeir nú géta sekir ordid um meinsæri, sem, þó sjálfir fordist villulærdóma, vanrækja móti þeim ad strída, nær á gáng koma, ó, hvörsu hrædiliga meinsvara fyrir Gudi má Þá

ólíta alla þá, sem slíka lærdóma sjálfir innleida, midt í því þeir látast þó embætti sínu þjóna. Postulinn Júdas hefir óttalig ord þar um, í sínu sendibréfi. Ad vísu er þad sjálfsagt, ad menn hljóta at gjøra gódan greinarmun á, hvers háttar þær frábrugdnu meiníngar, sem uppkoma, í veru sinni eru, nefnilliga hvørt þær snerta sjálfa grundvallar lærdóma christiligrar trúar, edur adra þeim áhángandi.

En grundvallar lærdómar eru, til dæmis, þessir: um þrieiníngunna í gúddóminum; um Jesú Christs guddóm og hans fridþægíngu, um erfda spillíngunna; um réttlætíngunna út af trúnni en ei verkunum; um naudsýn endurfædíngarinnar og gudligs lifnadar; um nádar medølin edur ordid og sacramentin, um ódaudleika sálarinnar, eptirkomandi dóm samt laun og straff í eylífdinni og fl. En, til dæmis, um edli þeirra upprisnu líkama, um skilníng atridanna: hvad nidurstígníngu Christs til helvítis, synd á móti heil. anda og fl. snertir, þá eru þesshattar ecki eiginliga undirstødu lærdómar trúar vorrar, sem hinir fyrri, fyrir hvørja madur er skyldugur allt til blódsins ad strída, og verja þá sem sína eigin sálu; en fyrir þá sídartøldu, ad eins svo framt frábrugdin meiníng um þá skérdir

nokkud edur hveckir gildi edur krapti hinna fyrri; þar sálartspun er ei vidridin fráviknfugu þessara, sem hinna.

Ad sönnu kannast eg vel vid, ad friþeinkjarar reikna það einga skyldu, ad skipta sér framar af afbokun hinna fyrri enn sídari, og kalla það óþollyndi (Intolerantiam), prestakúgun (Hierachiam), blindan vandlætis ákafa (Sværmerie) og fleiri svoddan sérlíkum titlum.

En géti nockud berliga mótstridt ritníngarinnar anda, er það þetta; því það er hid kiænasta bragd hins vonda, til ad opna villulærdóm-um dyr, en uppræta allan sannan christindóm. Strags í gamla testamentinu advaradi drottinn þráliga vid villulærdómum, og setti þar um merkiliga straung lög, sem lesa má 5 MB. 13. Eins varadi Jesús Christur sjálfur fólkid vid falskénnendum alvarliga (Matth. 7, 15); og hann seigir, ad kénnendurnir eigi ad vera salt jardar (Matth. 5, 13), sem verja skuli forrotnun kyrkjunnar líkama, svo vel í tilliti lærdóms sem lifnadar. Postulinn Páll skipar öllum, bædi leikum (2 Þess. 2, 15), og lærdum (2 Tim. 1, 13), ad halda fast vid trúarinnar lærdóm, en sér í lagi kénnendum (2 Tim. 4, 2. Tit. 2, 15) og vill ad þeir séu færir um ad reka mótmælendur til baka (Tit. 1, 9). Hann telur villulærdóma jafnskadliga, sem krabbamein í holdi manns (2 Tim. 2, 17) og varar frekt vid falslærendum; eins gjörir

Jóhannes postuli (1 Joh. 4, 1), og sýnir þeitra kénnimerki, á sínum dögum. En mótmælendur voru vilja ecki láta af neinu slíku skipta sér; heldur jafnvel annadhvært gjöra samband af öllum trúarbrögdum, edur leggja allskonar trúarlærdóm ad jöfnu, þar velferd manns, segja þeir, er ecki undir því komin hvörju hann trúir, helldur hvörnig hann lifir. Og þetta leitast þeir vid ad sanna med ráungfærdum ritníngar ordum; til dæmis: ad Christur (Luc. 13, 30) bauð, ad láta hvörutveggja — hveitid og illgresid — vaxa allt til kornskurdar; en hvör sjer ecki, sem sannleikan sjá vill, ad Christur talar hér ecki um villulærdóma, heldur um manneskjur (v. 5, 38), sem hvört heldur med lærdómi, eda lifnadi spilla Christs akri, ad hann ecki vill láta med ofbeldi og ofsóknum afmá þá af jördunni, heldur lofa þeim ad lifa med útvortis fridi; og er það sitt hvad, ad mótistanda ránngum lærdómi og lifnadi, edur hitt, ad eydileggja þá sem rángan lærdóm edur lifnad æfa. Það vonda ber ad uppræta, hvad mögulígt er, en ei þann vonda; persónuna ber ad elska, en það vonda í persónunni ad hata. Eins ósídurkvæmilig er heimfærsla orda postulans Peturs (Gb. 10, 35) uppá það eina gildi, hvörja trú einn hafi; því ef hann lifi vel, sé hann Gudi þóknanligur, eins og sá heidni höfudsmadur Cornelius í Cæsaræa. Því

audsjed er af þeirri sögu, ad hann var sanntrúadur ordinn á Messiam, eptir Gydínga vísu, ádur enn póstulinn til hans kom, þar allir Gydíngar unnu hönum fyrir hans trúrækni, og hann gaf Gydíngafólki miklar ölmusur; hann badst og fyrir á þeim sama tíma dags, sem Gydíngar plögudu ad gjöra; svo þad var einúngis hvad hann brast, ad vita ad Jesús af Nazareth, væri sá Messias, á hvörn hann trúa ætti. Nú, svo dygdugur sem þessi Cornelius var, og svo mikil gódverk sem hann ædi, (ad mjög fáir munu géta af jafnmiklum hrósad ser, enda ecki sjálfir þeir sem ætla sér med þeim einum ad standast fyrir Gudi), er þad þó næsta eptirtekta-verdt, ad þessi rádvandi madur, gat þó einga samvitsku rósemi einasta af þeirra medvitund feingid, og ei heldur vísadi eingillinn, sem hönum birtist, né Petur postuli, sem til hans var sendur, hönum til ad hugga sig eins-kostar vid verk sín, heldur tók postulinn strags ad prédika hönum út af Jesú Christo, og seigja ad hann væri sá, á hvörn menn ættu ad trúa, til ad fá fyrirgéfníngu synda sinna hjá Gudi; til hvörs lærdóms medtekníngar ad hann úrskurdadi Cornelium verdugan og hæfan, vegna hans gudliga hugarfars, strags sem hann kom í hans hús; og þetta var nú þad eina verk, sem Cornelium vantadi ad gjöra, nefniliga ad trúa á Jesum, til þess ad géta feingid frid vid

Gud og fulla samvitsku rósemd. Þetta er eins augliost af søgunni, sem það er lærdómsríkt.

Sama er að seigja um Orð spámannsins Habakuks (2, 4), að sá rettláti af trunni lofa muni; hvørra orda røð á tvøfaldan hátt takast kann; annaðhvørt svo, að sá sem af trúnni fyrir Guði réttlátur orðinn sé, muni lifa eður eylífliga farsæll verða; ellegar þannig: að sá réttláti (nefniliga sá sem vel lifir), muni þó af trúnni en ecki lifnaði sínum farsæll verða; en hvørt sem heldur er, sýnir postulinn Páll í pistlinum til Rómverja (hvar han Cap. 1 brúkar orð þessi svo sem fyrir Texta), hvør trú það sé, sem þessa orki, nefnil trúin á Jesúm Christ, sem þann rángláta réttlætir; en hitt er ramfølsk útleggíng, sem útleggur svo: að sá sem vel lifi, verði farsæll fyrir trú sína, hvillk sem hún svo er.

Það Fiórða, Fimta og Sjøtta Atriði í Presta-eiðnum, áhrærir líf og lifnað Prestanna. Og — hvørsu stór-nauðsynlig eru Atriði þessi! Því svo sem trúin sjálf er dauð án verkanna, og sá andliga dauður, sem þá verklausu trú hefir, en það er Prestanna skylda, að leitast við að uppvekja þá trú hjá sínum tilheyrendum, sem lifandi sé fyrir kjærleikann, þá er mjøg tvísýndt, að sá Prestur, sem sjálfur er andliga dauður, géti predikað inní aðra andligt

lff. Þessvegna seigir Sirach: óguðligur maðr kann ecki rétt að kénna, því það kémur ei frá Guði, (nefniliga það sem hann kénnir). Fyrir þá skuld, að fyrst vantar hann þann sanna Vísdóm (Jac. 3, 17); því hann kémur ecki í óráðvanda sálu, seigir sá vísi. Þarnæst hefir hann ecki þann sanna hirðirs trúskap til að bera, heldur leigulida skapsmuni (Joh. 10, 12), að hann hirdir ecki um sauðina. Í þriðja lagi skortir hann þá andligu reynslu; talar því opt þvert á móti sjálfum sér, og vandlætir opinberliga móti mørgu því, sem hann lítils metur heimugliga. Í fiórða máta kann hann ecki með hreinskilni að straffa lesti þá, sem samvitskan brixlar honum um, að hann lifi í. Í fimta lagi gétur hann vart gjørdt þá skakligu ordsins heimfærslu uppá hjørtun rétti-liga; blandar opt saman náð og náttúrn; gjørir ei greinarmun, sem þarf, á undangángandi og íbúandi náð; huggar opt þá hann skyldi straffa, og straffar þá hann hugga skyldi. Og — loksins, sé sjálfs hans líferni þekkjanligum løstum kafið, brýtur hann það niður með einni hendi, sem hann byggir með annari. Því seigir einn merkur kyrkju-lærifadir: „ef Prestur er dryckjumaður, lifir í ósamlyndi við konu sína, hefir á sér orð fyrir lauslæti, líður berligt guðleysi í húsi sínu, vottar þeckjanliga ágirnd og gróðasýki,

er nídskur og hardbýll og fl. hver vill sig óhult á hans kénnínga reida? Því þar hjartalag hans er sem hans lifnadur, mun kénníng hans í bland taka dám af hinum tveim uppsprettum." Þessvegna er á eingu svo mjøg ríðandi sem því, ad hjarta Prestsins sé Guds nádar verkstofa, svo lifnadur hans og kénníng, er þar á ad mindast, sé heil. Anda verk, en hvørki holdsins né skynseminnar einúngis. En til þessa er honum óseigjanliga naudsýnligt, ad hann géfi sig ecki ofmjøg vid veraldar sýsli, heldur helgi sálu sína Gudi, med ýduglígri lesníngu heil-Ritníngar og annara andligra bóka, einkum med dagligri voku og bæn til Guds, fyrir sér og sínu embætti; og þessvegna er og þetta, í hans eidstaf innsett. Því til ad vera gódur Prestur nægir einganveiginn mannligur lærdómur né málsnild einskostar, heldur hlýtur helgad hjartalag, ad vera høfudhjólid, er gjørvalt verkid framdrífur. Einn kann ad vera mjøg málsnjall, áheyriligur, og á sinn hátt uppbyggiligur predikari, en vera þó eingiun gódur Prestur. Gódur Prestur og gódur prédikari fylgiast opt ekki ad. Sá er í rauninni betri Prestur, sem midur prédikar, en lifir vel, enn hinn sem betur predikar, og lifir illa. Þad er eckí heldur allra, ad dæma rétt um gódar predikanir; málsnilli, snotur innfoll, hrærandi talshættir og

sl. gjøra ecki eina predikun alltíd verduga þess, ad kallast góð. Hún getur verid allsnotur, og þó ecki allgóð. Einginn lærir til fulls í mannanna-heldur í Guðs anda-skóla, ad halda, eptir Evangelió, saun-góða ræðu. Guðs andi má hafa helgað anda predikarans, ef ordum hans skal fylgja gudligur kraptur. Sømu ordum, af tveimur tøludum, fylgir opt misjafn kraptur, eptir því sem hvørs hjarta er sem talar. Í anda predikarans liggur krapturinn, en ecki svo í ordum hans. Á þessum døgum hafa menn nóg af málsnotrum og fegrum ræðum, en færra af rétt-góðum; og þessvegna eru og svo áheyriligir predikarar lángtum fleiri enn góðir Prestar. En ó, hvørsu mikið er þó umvardandi, ad kénnidómsstiettarinnar límir geymi þann rétta og helgaða þánkamáta.

Þeir eru Salt jardar seigir Jesús; dofni nú Salt þetta, merkist og rotnar smám saman kyrkjunnar líkami, og verdur sem úrldið hræ; fyrst innvortis, síðan æ meir og meir útvortis. En aptur á móti, séu kénnendurnir lifandi í trúnni, kjærleikanum, árvekninni og, bæninni, lífga þeir upp allan þann andliga, já og svo þann borgaraliga líkama, svo hann gjørist hraustur í Drottni, og í mætti hans kraptar.

Þeir verda þá hinir þorfustu embættis-menn í ríkinu; því þegar þeir laga þánkamáta folksins til góðs, fær kóngurinn trúlynda þegna, mid-

direins og Guð hreinskilna og sanna dýrðkendur. Þeir geistlign embættismenn eiga að vera sem innvortis-læknarar í þeim sidaliga heimi, en valdstjórnin sem útvortis. Þegar nú blóð og vessar í einum líkama ern hreinir og tempradir, munn vissuliga mikið fáir útvortis sjúkdómar og örkumsl votta sig. Það er ecki þarmed sagt, að það standi í kénnendanna valdi að lagfæra heimsins sidn að ölluleiti; en sannarliga þó, ef þeir allirværu samhuga og samtaka í vidleitninni, mundi mikln meira áorkast, enn skédur. Kyrkjunnar spilling byrjar, og hefir optast byrjað, í þeirri andlign stiettinni, og svo læst sig út til hinna. Svo géck það á páfadómsins tídum, og á líkan hátt sídann stundum.

Nú þó spilling kyrkjunnar sé optast nær afleidsla kénnidómsins spillingar yfir-höfuð að seigja, er það samt ekkert víst merki í því einstaka, að Prestirinn sé sem hans sofnudur, né sofnudurinn sem hans Prestur. Elias var einhver hinn frægasti Guðs spámadur og vandlætari á sinni tíð, og þó sáust lítil merki til Guðs ótta hjá Israels fólki, um það skeid sem hann var uppi. Hvar fyrir? Af því hann hafdi svo fáa af sínu standi, sem verkudu med honum, en marga á móti. Og — þvílík má dæmin fleiri finna. Vér eigum að planta og vökva, en ei gefa ávöxtinn. Han er Guðs verk, en ecki vort. Og þessvegna meigum vér trúa því, að hann

kannar vora dygd og trúmensku eins, hvert mikid edur lítid áorkast sýnist. En opt kann ávoxtu- rinn dyljast um hríd, en kémur upp á sínum tíma; máské þegar madur vœntir ſídst; máské ep- tir dag þess sem sádi. Látum oss vera þolin- móda, og bída Guds tíma! plöntum og vökvum trúliga í voninni, og mun von sú ei láta oss til skammar verda. Sæll er sá söfnudur, sem á gódan sálusorgara, og sæll sá sálusorgari, sem hefir gódan söfnud! Þó söfnudurinn, svo framt hann notar sér þad góda sálusorgarans; og þessi svoframt, hann hafi verid eiginlig med- orsök þess góda hjá söfnudinum. En hvad er þá þad góda sem hér er tilmeint? Svar: hjá bádum sönn lifandi trú og elska til Guds í Jesú Christo, ad samfa- randa sannchristiligu liferni leyndt og ljóst; hvorju, sérílagi á Prestsins sídu, fylgja verdur stadfost árvekni og vidleit- ni ad sorga fyrir sér tiltrúads safnadar andligri og eylífri velferd; en hjá söfnudinum alúdarfull elska og hlýdni vid sinn sálusorgara; og sín hvorutveggi svo sinnadir, mun, fyrir víst, hvor fyrir ödrum bidja, (án hvors allt er ónýtt), hvor ödrum alls góds unna, og þaug stórn Guds augnamid, nefniliga hans dýrd, og þeirra innbyrdis andligu og líkamligu velferd, í sönnum kjærleika, efla og adstoda. Gud gjæfi ad svo

geingi víða til! Látum oss þarum af hjarta biðja:

Lofaður vertú, æðsti höfuðprestur og hyrðir sálnanna herra Jesú! fyrir þá miskunarfullu nærgjætni; að, þegar þu sjálfur yfirgafst heimimn sýniliga, sendir oss ecki í þinn stað heil-Eingla til lærimeistara, heldur vora líka, syndugar manneskjur; þar þessir géta, af eiginn reynslu — eins og Þú eptir þínum manndómi — samþínst vorum breiskleika, en þó eingu að síður, gefið oss það dæmi, hvört, að því leiti það lagað er eptir þínu, er óhult, en, af því þeir eru manneskjur sem vér, mögunligt fyrir oss eptir að breyta. Nú af því embætti þeirra er svo heilagt og háleitt, (þar þeir eru þínir, þú köngur heilagra, sendiboðar til vor), æ svo útbúðu þá með krapti af hæðum, til að géta framqvæmt sína mikilvægu embættis-skyldur, og hvörki letjast né þreytast þó erfiðið sé þúngt, launin hér opt lítil, og ávöxturinn fyrir augunum eckí miksill. Lát þá aldrei, hvörki í kénníngu ne lifnaði, aðskilja það, sem þú villt að samteingt sé, trúna á þig og gudligt líferni, svo þeir eins vandir séu að grundvellinum sem yfirbyggíngunni, þá mun blómi ríkis þíns bera vitni þess köngi og hans undirsátum, að hann sé heilagur, en þeir sækist eptir að verða það. Lát eingan þeirra vera úlf í sauðaklæðum, eingan einúngis hljómandi málm og hvellandi bjöllu, eingan blind-

an blindra leidtoga, heldur uppfyll þeirra hjörtu með trúnni og kjærleikanum, með skynsemi og vandlæti, en tilheyrendanna með lífsi, lífi og krapti, til lofs þinni dýrdarligu náð! Géfðu öllum þínum stridsmönnum, hvörjir sem eru, og hvar sem eru, hugrecki til að stríða, þolinmæði til að líða, og trúlyndi til að bíða eptir sigrinum, og lífga þá upp með saunri fullvissu og sætri tilhlockun dýrdarinnar sigurhróss í eylifdinni. HE! bænheyr oss sökum þinnar náðar, þú safnaðarins höfud og hertogi, þú Sonur Guðs Jesú Christi, vor Endurlausnari! Amen!